# Æfisaga
# Margrétar Finnsdóttur
## Eckiufrúr
# Jóns Teitssonar
## Biskups yfir Hóla-Stipti.

---

Leirárgørdum vid Leirá, 1797.
Prentud af Bókþryckiara G. J. Schagfiord.

Væri nockurr ófródur um höfdínglegt ætterni sálugu Biskups-Frúr Margrétar Finnsdóttur, þeim er siálfvolsad til prentadra Ættartalna hennar þiódkunnugu og nafnfrægu Foreldra, nefnilega: sáluga Biskupsins yfir Skálholts-Stipti Doctors Finns Jónssonar og Frúr Gudrídar Gísladóttur, ásamt þeirra Æfisögum, sem votta, eins og flestum Íslendíngum er alkunnugt, bædi ad ættir þær lengi hafa verid einhvöriar enar blómlegustu og luckusælustu á voru landi, og framleidt flest stór-höfdíngia Íslands, líka og, ad bædi nefnd Höfdíngs-hión vóru um þeirra daga ad dygdum og sonn-

sonnum höfdíngskap sinnar ættar og stéttar og landsins sómi, og þeirra eptirkomendum verdugast dæmi í dygdanna ástundun. Ad vor sáluga Frú Margrét Finnsdóttir lét sér í lífinu þetta dæmi jafnan hugfast til eptirbreytnis, og ad allt hennar líf var verdugur ávöxtur til ad vera uppsprottinn af svo loflegum rótum, vottar eptirfylgiandi stutt ágrip hennar Æfisögu:

Hún var fædd í þennann heim ad Reykholti í Borgarfirdi þann 11ta Aug. 1734, og ólst lengst af upp í Foreldra-húsum, ad undanteknum þeim stuttu tímum, er hún nockrumsinnum til handydna lærdóms tafdi í Hýtardal hiá Fodurbródur sínum, þeim gódfræga Prófasti Síra Vigfúsi Jónssyni, og aptur hérum hálft 3ia ár í Saurbæ á Hvalfiardar-strönd hiá þeim alkéunda merkis-manni Síra

Þor-

Þorvardi Presti Audunarsyni; líka og á Leirá í Borgarfirdi hiá þeim velbornu Hofdíngs-hiónum Módurbródur sínum sál. Amtmanni Magnúsi Gíslasyni og hans elskudu Frú Þórunni Gudmundsdóttur, hvar hún jafnan þreydi, svo sem rádhollustu og náqvæmustu Frædara hennar úngdóms í allskonar sidsemd, nettleika og þeim mentunum, sem prýda og farsæla máttu sérhveria Hofdíngs-mey og konu, þó hennar vera hiá þeim ecki megi lengri teljast, enn þad árs-skeid, sem hennar sæli Fadir frá sumrinu 1753 til 1754 var erlendis til Biskups vígslu og hún, ad honum apturkomnum, flyttist med Foreldrum sínum 1754 til Skálholts.

Árid 1758 inngéck hún h. hiónaband þann 4da Aug. med þáverandi Prófasti og Presti ad Gaulverjabæ Hra. Jóni Teitssyni, sem árid 1780

vard sídarmeir Biskup Hóla-Stiptis; blessadi Gud þeirra hióna-sæng med 10 børnum, hvorra 5 ennþá lifa, nl. Sýslumadurinn í Snæfellsness- edur Þórness-þíngi Finnur Jónsson; Sigrídur, gipt Prófastinum í Borgarfiardar-sýslu og Presti til Reykholts Sra. Eiríki Vigfússyni; Katrín ennþá ógipt; Gísli Pro-Conrector Hóla Skóla og Stúdíósus Jón. Þau sáludu vóru: Sigurdur, Capellán til Kirkiubæjar Klausturs, sem fengid hafdi veitíngar bréf fyrir Lundi í Lundar-reykjadal, en drucknadi ádur enn hann þángad komst í Geitlandsá á Sídu, fyrsta dag vetrar 1789, 27 ára gamall, madur sídprúdur, hógvær og ástsæll; hin børnin, Þorsteinn, Haldóra og Ragneidar tvær, dóu øll á únga aldri.

Ept-

Eptir þad sálugi Biskupinn Jón Teitsson árid 1780 kom út híngad aptur med Biskups vígslu, fluttist vor sæla Frú Margrét Finnsdóttir sama sumarid nordur til Hóla Stóls frá Gaulverjabæ med sínum hiartkiæra Ektaherra, hvorium hún harmandi vard þar, sem Eckia, ad líta á bak rúmu ári seinna þann 16da Nóvembr. og tregadi hann sárlega alla æfi; en um vorid 1784, eptir þad pestnæmt øskufall af eldgusum Skaptár-jøkuls eytradi hér jardar-gróda vídast um landid, og ásamt adþreyngiandi hallæri fellt hafdi mestallann hennar og barna hennar lifandi pening, líkt og annara, flutti hún sig búferlum ad Nedra-ási í Hialtadal, lénsjordu nockurri Biskupa-Eckna nordanlands, sem þá vegna mann- og peníngs-fellirs lá vid ad leggiast í eydi, hvar hún í sínum einstædíngs-

ſkap bleſſadiſt undrunarlega vel, og nú nýlega endadi ſína hérviſtar-daga.

Bana-ſótt ſálugu Frúr Margrétar Finnsdóttur biriadi med miklu afl-leyſi, matar-ólyſt, nockrum høfudverki, uppþembíngi og ſlæmum hægdum til bakſins, af hvøriu tvennu ſeinaſt teldu, hún í nockur undanfarin ár hafdi af og til mikla þríngun úttekid og leitad ſér opt vid því hiálpar hiá Chirurgo Hra. Jóni Péturſſyni, en lagdiſt fyrſt þann 7da Apr. 1796 algiorlega af febri rheumatica auk ádurtalins, dróſt þó aptur á flack med veikum burdum ad frekri viku lidinni hérum vikutíma, en þá gripu hana á ný med ófurþúngum hætti øll ádurgreind tilfelli, ſem giørdu allar hægdir til baks og lífs, jafnvel med læknis-medala hiálp, mjøg ſvo ørdugar. Siúkdómurinn ſýndiſt ád ſønnu fara ſér hægt, þó med nærfellt ó-

ſløck-

slœckvanlegum þorsta, en þar ed næríngin var svo lítil sem engin um hennar lánga legu-tíma, tóku kraptarnir, ad vonum, lofsins ad þverra, minni og rænu hélt hún ad sönnu nockurnveginn óskœddudum allt fram í andlátid, en sjónin depradist og málfærid vard seinast miög þúngskilid. Þann 3ia Maí medtók hún, til endurnæríngar sinni sálu, Jesú líkama og blód í h. altarisins Sakramenti, af hendi fyrrum Stipt-prófastsins Sra. Þorkéls Olafssonar, og beid svo allann sinnar bana-sóttar reynslu- og undirbúníngs-tíma til gledi-ríkustu umskipta med sérlegu stodug-lyndi, þolgædi og bæna-ákalli til Guds, sem giördi enda á hennar píníngu med hægasta andláti í værdar-blundi þann 3ia Júní næst eptir, kl. 5 um morguninn, á hennar 62 aldurs ári; þau sídustu ord, er til hennar heyrdust qvöldid ádur,

 vóru

vóru þessi: líkna þú mér, Drottinn! Drottinn! líkna þú mér!

Sáluga Frú Margrét Finnsdóttir var naumlega medal-qvennmadur ad hæd, grann- og nett-varin, útlima-grønn, sómdi sér vel og bar sig mæta vel. Í andlitsfalli var hún toginleit, jørp á hár og brún, liósleit í andliti en þó undir eins nockud rióð, lítid móeygd, ennishá med litla undirhøku. Á únga aldri sínum var hún haldin einhver en frídasta, nettasta og høfdínglegasta Kona hér á landi, því í útliti hennar sameinudust augliós skarpleiki, ráddeild, røggsemd, stillíng, þocki og skapnadar fegurd.

Náttúran hafdi veitt henni fliótar, lidugar, nettar og vidfeldnar gáfur til flests, og þá engu minni greind á øllu, sem fyrir hana kom og bar; kunni hún alla almennilega Psálma-flocka og

marga

marga fleiri, las og danskar frædi-bækur; lagsæl og raddgód var hún, saung mæta vel, og kunni prýdilega flestar qvenna handydnir hér á landi. Seint og snemma á sinni æfi var hún af øllum, sem til hennar þecktu, ordlögd, sem einhver en mesta forstands- og búsýslukona vors lands, því greind og sied, gætin, hagnýtin og drífandi var hún til allra útréttinga, en undir eins mannelskandi, medaumkunarsöm, géstrisin, ørlát og høfdíngleg. Géstrisin var hún, og þókti bædi ædri og lægri monnum ánægia ad heimsækia hana, nióta hennar gódgiørda og uppbyggilega vidtals; stórgiøful var hún einatt vid vini sína og vandamenn, einkum þegar hún sá driúgrar hiálpar vidþurfa, en medaumkunar- og gódgiørda-söm vid gésti og gángandi, naudstadda og þurfamenn, hvad einkum ávann henni al-

menn-

menníngs lof og nú þessvegna almenníngs sóknuð, eptir það hún í Eckinstandi hafði þó við hvað minnst að stydjast. Bóngóð og fús á að lána var hún, og þó með öllu þessu í búskap sínum efnagóð og ødrum veitandi. Sem trúføst trygda-kona sleit hún aldrei vináttu við þá, sem hún eitt sinn tók henni við, og þóktist þeim aldrei fullþackað fá, er til goðs unnu af hennar hendi; við øfundar-menn og þá, sem hana jafnaðarlega móðguðu, var hún fáskiptin, en lét þeim þó bæði heilræði og hiálp í tje, þegar viðþurftu og leituðu hennar, eins og hún reyndist sérhvørium heilráð og vitur kona, hvørrar ráð væru mikils metandi. Ættrækni var og meðal hennar dygða svo mikil, að færri munu henni þarí fram hafa tekið.

Að

Ad lunderni var hún annars framar fliót- enn þúng-lynd, en ætíd med gódri stillíngu og jafnadar-gédi, þægilega glädlynd, þolinmód og optast jafnglod, eins þó eitthvad á móti bléſi, þvi ſérleg greind og ſkynſemi giørdi hana í øllum mótgángi ſtillta og ørugga; urdu varla adrir enn kunnugustu menn varir ſorgar-merkia í ordum hennar edur umgengni; var henni og ógédfellt, ad adrir vottudu henni medaumkun ſína yfir þvi, ſem ama kunni ad. Stiórnſøm í húſi ſínu lét hún ſkiliánlega en reidilauſt meiníngu ſína í lióſi, þegar henni mislíkadi; brá henni þá fyrst nockud til þagnar, en hagadi ſídan ordum ſínum ſvo, ad ókunnugir urdu ei varir vid þyckiu hennar, þó kunnugir adgættu ad hún tæki litlum lita-ſkiptum í andliti. Hún var ſífeldlega gódvikin, látædislaus, ſtillt og óhlutdeilin, merk

og

og trúføst í lofordum, einlæg, sparsöm og ydin, elskadi þessar og adrar dygdir miøg, framfylgdi þeim og hvatti adra til ad adhyllast þær. Ad gudhrædslu vóru fáir henni fremri, því hún elskadi miøg Guds ord, var vønd ad hans dýrkun, lét lesa hvørn dag qvøld og morgna, nema um sláttinn, andlega húslestra, og var siálf mæta vel upplýst í Guds ordi, án hiátrúar edur hleypi-dóma. Børnum sínum var hún ræktarfull, hugul, náqvæm og besta Módir, mentadi þau siálf og lét menta af allri alúd, sparadi þartil eckert, sá í eckert og taldi eckert þad eptir, sem þeim mætti verda til gagns edur sóma.

Af øllu þessu er sízt ad undra, þó sérhvørr, er þeckti þessa nafnfrægu, gódu Høfdingsfrú og naut hennar vináttu og gódgiørda ad, já, sérhvørr, sem

ann

ann gáfum, framsýni, mannelsku og dygd, sakni nú vid hennar fráfall Merkis- og Dándis- og Høfdíngs-Konu vors lands, hvörrar jafníngia þad óska mætti marga ad géta talid. Hennar sakna vinir og vanda-menn; hennar minníngu blessa þeir mørgu, hvørium hún biargadi, heidrar bædi hár og lágur, en Bornin harma bestu Módur.

Andvana líkami hennar var med sómasamlegri vidhøfn lagdur til hvíldar þann 14da Júní 1796, fyrir framan Kór-dyr í Hóla-Dómkirkiu, hiá hennar sáluga Ektaherra, og Børn þeirra láta nú í Kaupmannahøfn rista veglegann stein ad beggia moldum med þessari Grafskrift:

HÉR. HVÍLA.

HIÓN. BESTU. OG. HÖRMUD. ISLANDS.

# J Ó N. T E I T S S O N,

BISKUP. HÓLA. STIPTIS.

FÆDDUR.

VIII. AUGÚSTI. MDCCXVI.

LÁTINN.

XVI. NÓVEMBRIS. MDCCLXXXI.

OG.

# MARGRÉT. FINNSDÓTTIR.

FÆDD.

XI. AUGÚSTI. MDCCXXXIV.

LÁTIN.

III. JÚNII. MDCCXCVI.

DEYR. HOLD. EN. DYGD. ALDREI.

Ef. líkist. þessum. þú.
Þitt. aldir. heidri. nafn.

